Öreigar og kúgaðar þjóðir heims sameinist!

# Stéttabaráttan

Málgagn Kommúnistaflokks Íslands/Marxista-Lenínista

STÉTTABARÁTTAN VIKUBLAÐ. MÁLSVARI VERKAFÓLKS!

Ársáskrift ............ 3000kr.
Hálfsársáskrift.......... 1800kr.
Ársfjórðungsáskrift.... 1000kr.
Baráttuáskrift (gildir fyrir heilt ár)......... 5000kr.

28. tölublað. Þriðjudaginn 23. ágúst. 6. árgangur Verð kr. 60.

## Mótmælaaðgerðirnar 21. ágúst

Mótmælastaða var fyrir framan sovéska sendiráðið á sunnudaginn var. Rúmlega 300 manns voru á fundinum. Nokkrar gagnrýnisraddir heyrðust á Samtök Herstöðvaandstæðinga fyrir að fundurinn væri illa auglýstur. Ekki hafði verið leitað til hverfahópanna með undirbúning, en einn hópurinn tók upp hjá sér að gefa út dreifirit og dreifa því í miðbænum. Fluttar voru ræður og upplestur og formaður miðnefndar las ávarp samtakanna, sem ætlunin var að afhenda í sendiráðinu. Rússarnir létu hins vegar ekki svo lítið að koma til dyra. Mun bréfið því verða sent þeim í ábyrgðarpósti. Greinilegt er að lögreglan hafði lítinn áhuga á að taka þátt í mótmælum gegn kúgun Sovétríkjanna, því aldrei þessu vant héldu þeir sig í hæfilegri fjarlægð frá aðgerðum herstöðvaandstæðinga. Þó þekktust óeinkennisklæddir lögreglumenn í hópi mótmælenda. Síðdegis hélt 21. ágústnefndin svo innifund. Um 50 manns voru á fundinum og var gerður góður rómur að ræðum og öðrum dagskráratriðum.

### FRÉTTATILKYNNING FRÁ HERSTÖÐVAANDSTÆÐINGUM.

Samtök herstöðvaandstæðinga gangast í dag fyrir útifundi við sendiráð Svétríkjanna á Íslandi.

Í dag eru liðin níu ár frá innrás herja Varsjárbandalagsins í Tékkóslóvakíu. Enn er Tékkóslóvakía hernumið land og öll andstaða við Sovétríkin og fulltrúa þeirra í valdastöðum í Tékkóslóvakíu er brotin á bak aftur. Í dag eru tékknesk alþýða og íslensk bundnar á klafa hernaðarbandalaga sem nota ítök sín til að treysta aðstöðu til arðráns og yfirráða. Í þessum löndum er nú háð barátta gegn erlendu hervaldi.

Samtök herstöðvaandstæðinga telja sér skylt að andmæla erlendri hersetu í Tékkóslóvakíu og lýsa stuðningi sínum við baráttu Tékka og Slóvaka fyrir fullum mannréttindum. Kröfur okkar eru:

Burt með heri Varsjárbandalagsins úr Tékkóslóvakíu

Styðjum frelsisbaráttu Tékka og Slóvaka

Burt með hernaðarbandalögin: Ísland úr Nató, herinn burt

## 11. Þing Kommúnistaflokks Kína

11. þing Kommúnistaflokks Kína var haldið í Peking dagana 12.-18. ágúst s.l. Þetta er fyrsta þing flokksins eftir dauða Maó formanns og eftir sigurinn yfir klíku "fjórmenninganna". Á þessu þingi var haldið uppi merki Maó formanns og sýnd hollusta við kenningar hans, segir m.a. í fréttatilkynningu frá þinginu. Þar segir ennfremur að þetta hafi verið þing einingar og sigurs.

Dagskrá þingsins var þríþætt:

1. skýrsla miðstjórnar.
2. endurskoðun skipulagsskrár flokksins
3. kosning miðstjórnar.

Þingfulltrúar voru 1510 og voru þeir fulltrúar 35 milljóna flokks félaga. Fulltrúar úr röðum verkafólks, bænda, hermanna og annars vinnandi fólks voru 72,4%. Konur voru 19% fulltrúanna.

Félagi Hua Kuo Feng setti þingið og flutti skýrslu miðstjórnar. Í skýrslu Hua formanns er m.a. lagt fram mat á ástandi og horfum í kínverskum málefnum, jafnt sem alþjóðlegum. Félagi Hua sagði m.a. að sigurinn yfir andbyltingarklíku "fjórmenninganna" táknaði endi fyrstu menningarbyltingar öreiganna, sem staðið hefur í ellefu ár. Það þýði þó alls ekki endi stéttabaráttunnar á byltingarskeiði alræðis öreiganna í Kína. Hann lauk skýrslu sinni á því að leggja áherslu á að örva þyrfti til dáða öll jákvæð öfl innan flokksins og utan, treysta einingu flokksins, hersins og þjóðabrotanna til að treysta alræði öreiganna og byggja upp sósíalískt ríki.

Hua Kuo-Feng formaður Kommunistaflokks Kína, og Yeh Chien-Ying varnarmalaráðherra.

Hinni fjögurra tíma ræðu félaga Hua var fagnað með stormandi lófataki. Siðan flutti Yeh Chien Ying, varaformaður flokksins, ræðu. Á síðasta degi þingsins var nú miðstjórn kosin. Í henni eiga sæti 201 félagi og 132 varafulltrúar voru kosnir. Félagi Teng Sjá Ping flutti lokaræðu þingsins eftir að hafa kynnt niðurstöður kosninganna, þar sem félagi Hua Kuo Feng var endurkosinn formaður flokksins. Teng lauk ræðu sinni á því að skora á félaga flokksins, herinn og alþýðuna að styðja og styrkja flokkinn undir forystu Hua Kuo Feng, styrkja eininguna, koma á röð og reglu í landinu með það að markmiði að gera Kína að sterku, öflugu, nútíma sósíalísku ríki í lok þessarar aldar, til að geta lagt fram meiri skerf til velferðar mannkynsins.

Þannig lauk merkum kafla í sögu kínverska alþýðulýðveldisins. Stéttabaráttan óskar kínverskri alþýðu til hamingju með þennan sigur. Nánar verður greint frá þinginu og ræðum í næstu blöðum.

## Sameinumst gegn heimsvaldastefnunni

Útþenslustefna sovésku sósíal heimsvaldasinnanna hefur orsakað umræður um stjórnlist og baráttuaðferðir kommúnista við núverandi aðstæður. Til eru bæði þeir sem aðhyllast kenningu Maó formanns um tilvist þriggja heima og eins þeir sem afneitaþessari kenningu og telja hana óraunhæfa við núverandi aðstæður. Kenningin um þrjá heima felur í sér marxíska skilgreiningu á þeim breyttu aðstæðum, sem sköpuðust eftir síðari heimsstyrjöldina eftir að Sovétríkin urðu aftur heimsvaldaríki og fyrrverandi nýlendur í Asíu, Afríku og Latnesku Ameríku urðu að mikilvægu stjórnmálaafli á vettvangi heimsstjórnmálanna. Hún felur í sér að skapa skuli víðtæka samfylkingu verkalýðs iðnþróaðra landa og alþýðu þriðja heimsins. Kenning Maós byggir á bandalagi verkalýðsins og bændanna, undir forystu verkalýðsins og hún tekur tillit til allra afla sem eru að verki í nútíma stjórnmálum. Hún tekur bæði tillit til þeirra andstæðna sem ríkja milli ríkja þriðja heimsins og risaveldanna tveggja, sem og andstæðna sem ríkja milli heimsvaldasinnanna innbyrðis. Kenningin um þrjá heima felur í sér sköpun samfylkingar undir forystu verkalýðsins, þar sem andstæðurnar milli þriðjaheimsríkjanna, sem jafnvel kunna að vera erkiafturhaldssöm, og risaveldanna eru nýttar, og á sama hátt þær andstæður sem ríkja milli risaveldanna og annara iðnþróaðra ríkja, eru nýttar í baráttunni fyrir þjóðfrelsi, sjálfstæði og sósíalisma. Kenningin um tilvist þriggja heima er ekki afneitun á stéttabaráttunni, né hylur tilvist hennar, heldur er hún þvert á móti snjöll beiting marxismans-lenínismans við ríkjandi heimsástand.

Þeir sem hafna þessari kenningu afneita um leið möguleikanum á söpun slíkrar samfylkingar gegn risaveldunum og láta undir höfuð leggjast að

FRAMHALD Á SÍÐU 2.

SOVÉT
KFÍ/ML
USA
Styðjum frelsisbaráttu Tékka og Slóvaka.
Ísland úr NATO-herinn burt.

## Lokun frystihúsanna

Búið er að segja upp verkafólki og loka þremur frystihúsum í Þorlákshöfn á Stokkseyri og Eyrarbakka. Aðrir frystihúsaeigendur hér á suðvesturhorni landsins ráðgera það sama. Ástæðuna fyrir lokun frystihúsanna telja eigendur þeirra vera erfiðleika vegna nýafstaðinnar kauphækkunnar verkafólks. Þess vegna vilja þessir auðmenn knýja á ríkisvaldið til að fella gengi íslensku krónunnar. Það mun hafa þær afleiðingar að þær fiskbirgðir sem til eru og munu verða framleiddar seljast með meiri gróða á erlendum mörkuðum og af sjálfsögðu mun gróðinn lenda í vösum frystihúsaeigendanna. Þetta mun aftur á móti hafa þær afleiðingar fyrir okkur verkafólkið að vöruverð mun stórhækka og mun sú hækkun eins og oftast endranær verða óbætt.

Þessi sultarsöngur frystihúsaeigenda er aðhlátursverður, ef athuguð eru þau kjör sem verkafólk í fiskiðnaði í Færeyjum og Noregi býr við. Þar vinnur verkafólkið yfirleitt aðeins dagvinnu, og fær um það bil helmingi hærra kaup heldur en við í samskonar vinnu hér á Íslandi. Samt sem áður er fiskur þessara þriggja þjóða seldur á sama verði á Bandaríkjamarkaði. Mörg dæmi eru um að Sölumiðstöð Hraðfrystihúsanna hafi keypt heilu skipsfarmanna af þorskblokk af frændum okkar Færeyingum til að selja á Bandaríkjamarkaði. Þetta er hægt þrátt fyrir að verkafólki í Fæeyskum fiskiðnaði sé greitt helmingi hærra kaup heldur en þekkist hér. Því er það augljóst mál að gróði íslenskra frystihúsaeigenda af okkar vinnu er ofboðslegur, og harmakvein þeirra núna er eingöngu til þess ætlað að fá gengisfellingu til að auka gróðann á kostnaðlaunafólksins í landinu.

Það er alvarlegur hlutur þegar hundruðum verkafólks er sagt upp störfum, af örfáum auðmönnum sem eiga atvinnutækin sem við verkafólkið höfum byggt upp með okkar vinnu. Ef þessir auðmenn telja sig ekki geta borg-

FRAMHALD Á SÍÐU 3.

LEIÐARI:

# Ný kjaraskerðingasókn

Það er ekki í fyrsta og örugglega ekki í síðasta skipti sem verkafólk fær að heyra það að vegna þess að launin hafi hækkað um nokkrar krónur þá séu atvinnuvegirnir að sigla í strand. Lokun nokkurra frystihúsa á að vera því að kenna að launin hækkuðu örlítið í síðustu kjarasamningum. Ef þetta væri í raun og veru orsökin þá ætti launalækkun að vera hvati til að koma í veg fyrir að slíkt ætti sér stað.

Nú undanfarin ár hafa launin alltaf verið að lækka en þrátt fyrir það hefur söngurinn um stöðvun frystihúsa stöðugt dunið yfir. Það er ekki nema rúmt ár síðan þessir sömu frystihúsaeigendur og togaraeigendur kvörtuðu sáran og töldu að nú væri ekkert annað fyrirsjáanlegt en að leggja öllum togurunum. Þá var lausnin að fella niður afborganir af togurunum að stórum hluta. Nú verður lausnin sennilega sú að gengið verður fellt og ný kjaraskerðingarsókn hafin til að framleiðslan geti haldið áfram eins og það verður látið heita. Áróður fyrir þessari lausn er nú þegar hafin og lokun frystihúsanna er aðferð til að fá verkafólk til að sætta sig við gengisfellingarleiðina. Allar líkur eru samt á því að fleiri efnahagsráðstafanir verði framkvæmdar til að "leysa vanda" frystihúseigenda eins og það er kallað. Allar líkur eru á því að skattar og afborganir af lánum verði að mestu felldir niður auk þess sem styrkir til uppbyggingar fiskiðnaðarins verði stórlega efldir. Þessar ráðstafanir eru enn á umræðustigi, en þó má lesa út úr því sem fram hefur komið að þetta er sú lausn sem valin verður. Allt er þetta vegna þess að laun starfsfólks í frystihúsum og sjómanna hafa hækkað um rúm 15 þús. á mánuði, eða svo er okkur sagt.

Getur það verið að þessi smánar kauphækkun fyrir um tveimur mánuðum síðan hafi haft þessi áhrif? Er ekki öllu líklegra að þetta sé sjónleikur sem settur er á svið til að verkafólk sætti sig við þær nýju aðgerðir í efnahagsmálum, sem atvinnurekendur og ríkisstjórnin eru búin að undirbúa og það löngu fyrir kjarasamningana.

Barlómurinn vegna kjarabótanna er líka nokkuð hjákátlegur ef hann er skoðaður í ljósi hins aukna gróða sem varð af útfluttum sjávarafurðum á síðasta ári. Þá varð söluverðmæti frystra sjávarafurða á Bandaríkjamarkaði það hæsta sem þekkst hefur. Á því ári jókst söluverðmætið um 50% og fer frekar hækkandi á þessu ári. Fiskgengd hefur líka orðið mun meiri en búist hafði verið við og nú er spáð 17% hækkun á verðmæti útfluttra sjávarafurða á þessu ári. Tilraunir þær sem gerðar hafa verið til að kenna kauphækkuninni um rekstrarörðugleika frystihúsanna eiga því við engin rök að styðjast. Ef dæmið væri gert upp í heild sinni kæmi í ljós að rekstrarkostnaður hvers frystihúss fyrir sig hefur í mesta lagi aukist um 10 millj. á ársgrundvelli að meðaltali, sem er ekki nema brot af rekstrarkostnaði meðal frystihúss. Þessar aðgerðir eru því á engan hátt tengdar launahækkunum. Launahækkunin er aðeins notuð í áróðursskyni til að verkafólk sætti sig frekar við nýja kjaraskerðingarsókn, með hótuninni um að annað hvort verði launin lækkuð eða atvinnuleysi hefji innreið sína.



**HVERNIG KEMST ÞÚ Í SAMBAND VIÐ KOMMÚNISTAFLOKK ÍSLANDS/ML?**

Miðstjórn og ritstjórn Stéttabaráttunnar: sími 27810 og pósthólf 1357, 121R. einnig í Rauðu Stjörnunni bókabúð, Lindargötu 15. Opin mánud.-föstud. 15-18.30.
Hornafjörður: Skúli Waldorf Silfurbraut 2.
Hafnarfjörður: Fjóla Rögnvalds Reykjavíkurvegi 24.
Akureyri: Jón Atli Játvarðsson Hafnarstræti 23.
Snæfellsnes: Sigfús Almarsson Hellisbraut 10, Hellissandi.
Ísafjörður: Kristinn Karlsson Fjarðastræti 7.
Neskaupsstaður: Messíana Tómasdóttir, Þiljuvöllum 38.
Suðurnes: Einar Jónsson Sólvallagötu 40c, Keflavík.

FRAMHALD AF FORSÍÐU

# Sameinumst gegn

afla sósíalísku byltingunni og þjóðfrelsisbaráttunni allra þeirra bandamanna sem mögulegt er. Þeim láist að athuga þýðingu þeirrar sjálfstæðisbaráttu sem þriðjaheimsríkin heyja gegn risaveldunum. Enginn getur efast um að stjórn Mobutos í Zaire er afturhaldssöm og andstæð hagsmunum alþýðunnar í Zaire. En það breytir þó engu um að sigur Zaire yfir innrásarliðinu frá Angóla fyrr á þessu ári, varð jafnframt til þess að hefta útbreiðslu sovéskrar árásarstefnu í S-Afríku. Ef við aðhyllumst þá kenningu að risaveldin séu höfuðandstæðingur sósíalisma og þjóðfrelsis, leiðir beint af henni, að andstaða Zaire við sovéska útþenslustefnu og sigur yfir henni gagnar málstað okkar. Sérhver marxisti-lenínisti hlýtur að viðurkenna, að baráttan fyrir þjóðfrelsi og sjálfræðarétti er hluti af hinni almennu spurningu, hluti af baráttunni fyrir sósíalisma. Kenning Maós um hina þrjá heima túlkar einmitt þá afstöðu, að skapa verði eins víðtæka samfylkingu og unnt er gegn höfuðandstæðingnum og stuðningur kínverja við sjálfstæðisbaráttu Zaire er einmitt í anda hennar.

En sköpun samfylkingar gegn risaveldunum tveimur felst ekki einvörðungu í stuðningi við sjálfstæðisbaráttu þriðjaheimsríkjanna þótt það sé mikilvægur þáttur hennar. Hún felst líka og enn frekar í stuðningi við þjóðfrelsisbaráttu og byltingarbaráttu í öllum löndum og sköpun samfylkingar gegn risaveldunum í eigin landi. Hið fyrrnefnda birtist glögglega í þeirri baráttu sem háð var til stuðnings alþýðunni í Indókína og þeirri baráttu sem nú er háð til stuðnings alþýðunni í Palestínu, Tékkóslóvakíu, Chile, S-Afríku o.s. frv. Sigur vietnömsku alþýðunnar yfir bandarísku heimsvaldasinnunum má þakka samfylkingarbaráttu þjóðfrelsisfylkingarinnar, sem sameinaði alla andstæðinga erlendrar kúgunar í eina volduga samfylkingu sem aflaði sér stuðnings um alla veröldina. Hið sama verður að segja um Palestínu. Ef PLO hafnaði stuðningi ýmissa ríkja af grundvallarástæðum og neitaði samfylkingu við vara sama og ótrausta bandamenn eins og endurskoðunarsinna, myndi sigurganga palestínskrar alþýðu áreiðanlega ekki verða eins óslitin og verið hefur. Kim Il Sung, forseti Alþýðulýðveldisins N-Kóreu bendir á, að "hin sameiginlega andheimsvaldasinnaða barátta sé á engan hátt í andstöðu við baráttuna gegn endurskoðunarstefnunni. Hún er fremur jákvætt form baráttunnar gegn hentistefnu af öllum gerðum. Það er rétt pólitík að koma á sameiginlegri baráttu og samfylkingu gegn heimsvaldastefnunni, pólitík sem leiðir ekki bara til árangurs í baráttunni gegn heimsvaldastefnunni, heldur vekur einnig fjöldann til byltingarsinnaðra dáða, snýst gegn sérhverri mynd hentistefnunnar og varðveitir hreinleika marxismans-lenínismans". (Skýrsla til Ráðstefnu Kóreanska Verkamannaflokksins 5/10 1966).

Sigur alþýðunnar gagnar nefnilega ekki endurskoðunarstefnunni sem í eðli sínu er borgaraleg stefna. Ef endurskoðunarsinnarnir velja að styðja frelsis- eða byltingarbaráttu alþýðunnar, þótt það sé af eiginhagsmunaástæðum, væri rangt að hafna slíkum stuðningi og ennþá rangara að neita að styðja slíka baráttu af þeim sökum einum að endurskoðunarsinnar styddu hana. Endurskoðunarstefnan á nokkurt fylgi meðal fjöldans og þó hún hafi verið fræðilega afhjúpuð, er ennþá langt þangað til fjöldinn skilur afturhaldssamt eðli hennar og yfirgefur hana. Til þess þarf að afhjúpa endurskoðunarsinnuðu foringjana og póltík þeirra í framkvæmd. Í baráttunni til stuðnings frelsis- og byltingarbaráttu alþýðunnar í öðrum löndum gefst besta tækifærið til að afhjúpa óheilindi og hentistefnu endurskoðunarsinnuðu foringjanna. Og um leið gefst tækifærið til þess að opna augu fjöldans fyrir eðli endurskoðunarstefnunnar og fylkja honum undir fána réttrar baráttustefnu. Þeir sem neita að taka þátt í samfylkingu, af "grundvallarástæðum", vegna þess að endurskoðunarsinnar leiða hana, taka þátt í henni eða styðja hana, kasta bara frá sér sérhverjum möguleika á baráttu gegn endurskoðunarstefnunni og skilja fjöldann eftir undir forystu endurskoðunarsinna baráttulaust. Slík tryggð við "grundvallaratriði" er ekki bara hlægileg, heldur líka skaðleg fyrir byltingarbaráttuna. Stjórnlist sósíalísku byltingarinnar felst m.a. í því, að safna saman sem mestu liði gegn andstæðingnum og svipta hann jafnframt möguleikanum á liðsauka og bandamönnum. Við ætlum að vinna fjöldann til liðs við okkur og megum aldrei setja það fyrir okkur þótt hann fylgi endurskoðunarsinnum í dag, eða jafnvel hægrisinnum.

Hér á Íslandi birtist baráttan gegn risaveldunum ekki aðeins í stuðningi við sjálfstæðisbaráttu þriðjaheimsríkjanna og þjóðfrelsisbaráttu alþýðunnar um víða veröld, heldur einnig í beinni baráttu gegn ásælni og yfirgangi risaveldanna hérlendis. Baráttan fyrir sjálfsákvörðunarrétti íslensku þjóðarinnar, baráttan gegn veru Íslands í NATO og herliðinu á Miðnesheiði, baráttan gegn útþenslustefnu Sovétríkjanna á N-Atlantshafssvæðinu - allt eru þetta liðir í byltingarbaráttu íslenskrar verkalýðsstéttar. Verkefni kommúnista er að skapa volduga samfylkingu gegn risaveldunum og safna fjöldanum til fylgis við slíka samfylkingu. Þessi barátta er þegar vel á veg komin. Samtök Herstöðvaandstæðinga sem hafa vaxið ótrúlega hratt á örfáum árum eru einmitt slík samfylking.

Til eru þeir sem álíta Samtök Herstöðvaandstæðinga lítt vaxin baráttunni gegn risaveldunum. Þar er aðallega um að ræða tvo hópa, annars vegar endurskoðunarsinnaða foringja sem ekki vilja berjast gegn sovésku sósíalheimsvaldastefnunni en einangra baráttuna við bandarísku heimsvaldastefnuna og hins vegar róttæklingar sem telja Samtökin ófær um að heyja baráttuna gegn Sovétríkjunum vegna ítaka endurskoðunarsinna í þeim. Hinir fyrrnefndu eru aðallega í Alþýðubandalaginu og Fylkingunni og stór hluti þeirra vill helst breyta Samtökum Herstöðvaandstæðinga í lítilþæga kosningavél fyrir Alþýðubandalagið, sem berst gegn hernum en ekki NATO, gegn Bandaríkjunum en ekki Sovétríkjunum. Þessi skoðun hefur þegar beðið mikinn hnekki og yfirgnæfandi meirihluti herstöðvaandstæðinga er hlynntur fjöldabaráttunni og baráttunni gegn NATO. Hins vegar hafa endurskoðunarsinnarnir reynt að einskorða baráttuna við bandarísku heimsvaldastefnuna og vilja þagga niður andstöðuna gegn sovésku sósíalheimsvaldastefnunni. Róttæklingarnir eru aðallega í EIK og þeir hafa rökstutt starfsleysi sitt og brotthlaup frá baráttunni með því, að endurskoðunarsinnar hafi of mikil völd í Samtökum Herstöðvaandstæðinga og að Samtökin berjist ekki gegn Sovétríkjunum. Þar með hafa þeir einangrað sig frá fjöldanum í Samtökunum, hafnað baráttu innan Samtakanna og návígi við áfrif endurskoðunarsinna, þar. Þeir skilja ekki, að endurskoðunarsinnarnir munu ráða Samtökum Herstöðvaandstæðinga einir og óhultir ef marxistar-lenínistar yfirgefa þau af "grundvallarástæðum". Þeir skilja ekki að hið eina sem getur beint samtökunum inn á réttar brautir og fylkt þeim til baráttu gegn sósíalheimsvaldastefnunni er einmitt þátttaka og barátta marxista-lenínista innan þeirra. Jafnvel þegar Samtök Herstöðvaandstæðinga sveigjast að fjöldabaráttu og aðgerðum gegn báðum risaveldunum, fussa þeir og segja að hér sé aðeins um brögð að ræða, af hálfu endurskoðunarsinna. Þannig virðast þeir álíta að baráttan gegn Sovétríkjunum og Bandaríkjunum geti þjónað endurskoðunarstefnunni til þess að afla fylgis fjöldans. Það sem þeim yfirsést, er einmitt, að núverandi stefna Samtaka Herstöðvaandstæðinga - að heyja fjöldabaráttu, að berjast gegn bæði NATO og hernum og nú síðast að berjast gegn sovésku heimsvaldastefnunni - er einmitt árangurinn af baráttu félaga Kommúnistaflokksins. Endurskoðunarsinnarnir hefðu viljað hið gagnstæða, en barátta kommúnistanna hefur neytt þá til að gefa eftir lið fyrir lið. Þeir sem snúa baki við baráttu herstöðvaandstæðinga gegn sovésku heimsvaldastefnunni af því að þeir halda að um brögð sé að ræða grafa aðeins sína eigin gröf.

Mótmælaaðgerðirnar 21. ág. til stuðnings sjálfstæðisbaráttu tékkneskrar alþýðu, sýna glögglega að Samtök Herstöðvaandstæðinga taka sjálfstæða afstöðu gegn risaveldunum. Hér er ekki um nein brögð endurskoðunarsinna að ræða, það sannast best af því, að margir félagar Alþýðubandalagsins - þeirra á meðal leiðandi félagar - og óflokksbundnir menn styðja aðgerðir til stuðnings tékkneskri alþýðu. Það væri alrangt að hafna samstöðu við þetta fólk á þeim grundvelli að það hefði brögð í tafli. Við viljum skapa samstöðu gegn risaveldunum og hljótum því að fagna stuðningi þessara aðila við stefnu okkar. Aðgerðir Samtaka Herstöðvaandstæðinga gegn Sovétríkjunum eru mikilvægur áfangi í baráttunni fyrir sköpun fjöldasamtaka gegn heimsvaldastefnunni og sköpun réttrar baráttustefnu þeirra. Kommúnistaflokkurinn stóð einn að mótmælaaðgerðum gegn sovésku sósíalheimsvaldastefnunni í fyrra á 21. ágúst. Niðurstöðurnar af umræðum um þær aðgerðir voru einmitt þær að rétt væri að vinna að því, að fjöldasamtök á borð við Samtök Herstöðvaandstæðinga gengjust fyrir slíkum aðgerðum í ár. Þetta er nú orðið að veruleika og þar með hefur Kommúnistaflokkurinn gert upp við einangrunarstefnu sína í þessu máli, ekki aðeins í orði, heldur einnig í verki.

Stjórnlist og baráttuaðferð kommúnista í dag hlýtur að byggja á kenningu Maó formanns um þrjá heima og á réttri beitingu hennar við séraðstæður sérhvers lands.

# Sovétríkin styðja afturhald Eþíópíu

Ástandið í Eþíópíu hefur orðið æ alvarlegra eftir því sem sovésku sósíalheimsvaldasinnarnir hafa blandað sér meira í málin. Nú má segja að þeir hafi komið á fót loftbrú, til að sjá herforingjaklíku Haile Mengistu Mariam fyrir nútíma vopnum og herbúnaði. Vopnum þessum er aðallega ætlað að brjóta á bak aftur stórsókn frelsishreyfinganna í Eritreu, en ELF og ELFP halda nú allri landsbyggðinni á sínu valdi og hafa umkringt Asmara, höfuðborg landsins. En vopnaflutningarnir eru líka liður í því að bæla niður frelsisbaráttu V-Sómala í Ogaden héraði í austur hluta Eþíópíu. Þrátt fyrir aukinn vopnabúnað, kúbanska hermenn og sovéska hernaðarráðgjafa, hefur herforingjaklíkunni ekki tekist að stemma stigu við framsókn frelsishreyfinganna og nú nýverið varð fyrsti vísirinn að alþýðustjórn til í Ogaden héraði.

## Kúbanskir málaliðar og sovésk vopn.

Sovétríkin hafa orðið að sjá af mörgum bandamönnum sem þau höfðu aflað sér í norðaustur Afríku. Í Súdan, Egyptalandi, S-Yemen (sem er hinum megin Rauða hafsins) og nú síðast í Sómalíu hafa sovéskir hernaðarráðgjafa og tækniráðunautar verið gerðir brottrækir. Sómalía var áður "vinaríki Sovétríkjanna, en þegar herforingjarnir í Eþíópíu vísuðu öllum bandarískum sérfræðingum úr landi fyrir skemmstu og sleit samskiptum við bandaríkin, þá notuðu sovésku heimsvaldasinnarnir tækifærið að fylla það "tómarúm" sem þar skapaðist. Þeir sendu Haile Mengistu Mariam þegar heimboð og skömmu síðar var gerður vináttusamningur milli ríkjanna, sem fól í sér gífurlega hernaðaraðstoð og fjármagnsinnflutning til Eþíópíu. Þessi aðgerð rússanna hafði óhjákvæmilega í för með sér vinslit við Sómalíu, en milli Sómalíu og Eþíópíu hefur lengi verið grunnt á því góða. Allt frá því að evrópsku nýlenduherrarnir yfirgáfu Afríku og skildu við landamæri hennar eins og þau höfðu verið á nýlendutímanum, hefur N-Austur horn Afríku verið "heitt" svæði.

Sómalir búa ekki aðeins í Sómalíu, heldur einnig í Djibúti, sem nýlega varð sjálfstætt, Ogaden héraði í Eþíópíu og Norður héruðum Kenya. Draumur Siad Barré, forseta Sómalíu, hefur verið að sameina sómali í eitt stórríki og afstaða herforingjanna í Eþíópíu er honum þyrnir í augum. Þegar Fidel Kastro kom í opinbera heimsókn til Eþíópíu og Sómalíu, lagði hann til að ríkin mynduðu "marxískt ríkjasamband", en tillögur hans mættu andúð beggja aðila og þó sérstaklega Sómala. Eftir að frelsisbaráttan hefur færst í aukana í Eritreu og Ogaden, hafa herforingjarnir í Addis ababa gert örvæntingarfullar tilraunir til að bæla hana niður Leiðirnar sem þeir hafa valið eru stofnun "alþýðuhersins", 100 þúsund manna bændahers sem búinn er sovéskum vopnum og lýtur forystu kúbanskra liðsforingja og sovéskra hernaðarráðunauta . En árangurinn lætur á sér standa og Sovétríkin flækja sig stöðugt meira í baráttuna gegn frelsisbaráttu Eritrea og V- Sómala. Eþíópía er sovéskt Vietnam, þar sem sósíalheimsvaldasinnar og kúbönsku leigusnatarnir þeirra reyna að bæla sjálfstæðisbaráttu afrískrar alþýðu niður í blóði. Til þess að réttlæta íhlutun sína og kúgunaraðgerðir, hafa Kremlherrarnir gripið til gamalkunnugs bragðs - Þeir kalla Haile Mengistu Mariam og fasistaklíku hans "marxíska ríkisstjórn" og "bræðraþjóðirnar" í Sovét og Kúbu koma henni til aðstoðar gegn "innrásum og óeirðum heimsvaldasinnaðra leiguþýja"




Þessi aðferð ber mikinn keim af Angóla, þar sem MPLA var dubbað upp sem "marxísk hreyfing" og notuð til þess að tryggja sósíalheimsvaldasinnum völd yfir Angóla. Hún minnir líka mjög á áróðursbrögð bandarísku heimsvaldasinnanna í Vietnam sem titluðu fasistastjórn Thieus sem "lýðræðisstjórn" og reyndu að bæla niður "innrás og óeirðir" víetnamskra frelsisafla í nafni 'vestræns' lýðræðis. Bandaríkjamenn biðu fullkominn ósigur , þrátt fyrir yfirburði á sviði vopnabúnaðar. Hið sama mun óhjákvæmilega bíða sovésku sósíalheimsvaldasinnanna, glæpir þeirra og ofbeldi í N-austur Afríku munu verða afhjúpaðir og kúbönsk leyguþý þeirra gersigruð. Afrísk alþýða mun brjóta af sér klafa sósíalheimsvaldastefnunnar og öðlast frelsi.

fyrst og einna harðast baráttu gegn endurskoðunarstefnu Sovétríkjanna og sósíalheimsvaldastefnu á heimsvettvangi. Í upphafi baráttunnar gegn "fjórmenningunum" og skemmdarverkastarfi þeirra stóð Teng mjög framarlega en gerði sjálfur á sama tíma nokkrar alvarlegar villur með því að honum tókst ekki nægilega að byggja gagnrýni sína á byltingarsinnuðum kenningum Maós í menntunarmálum og að nokkru leyti í efnahagsmálum, heldur bar gagnrýni hans nokkurn keim af borgaralegri umbótastefnu. Þetta notuðu "fjórmenningarnir" sér til að breiða yfir ýmislegt sem var jákvætt í þeirri gagnrýni sem Teng lagði fram og hófu þeir og fylgismenn þeirra alhliða "gagnrýnisherferð" gegn "borgarastéttinni innan flokksins" . Gengu þeir svo langt að þeir réðust meira að segja gegn minningu Sjú En Læs, sem þá um leið var í reynd óbein árás á Maó formann

En þótt "fjórmenningunum" hafi þannig tekist um tíma að beina athyglinni frá sér þá tókst þeim ekki að forðast hið óumflýjanlega. Leiðtogar flokksins og þeirra á meðal Maó formaður, sem gert hafði margar tilraunir til að leiða þau til réttrar brautar en frá valdabrölti sínu, höfðu séð í gegnum fyrirætlanir þeirra. Alþýðunni í Kína var líka að verða nóg boðið af tvöfeldni þeirra og einræðislegum athöfnum og klíkuskap. Traust alþýðunnar á "fjórmenningunum var að bresta. Þegar öreigaalræðið lét svo til skarar skríða gegn fjórmenningunum komust þeir að því að þeir voru svo til algerlega einangraðir, enda gat það ekki öðruvísi verið þar sem með klíku starfsemi sinni voru þeir raun og veru aðeins að einangra sjálfa sig frá fjöldanum.

## Leiðréttingarherferð

Nú hefur kínverskur öreigalýður og bændur tekið til við sósíalíska uppbyggingu af fullum krafti undir leiðsögn formanns Hua Kuo Feng og við það starf að leiðrétta og byggja upp að nýju ýmislegt sem fjórmenningarnir höfðu rifið niður.

Afleiðing þessarar leiðréttingarherferðar er meðal annars hin svokallaða endurreisn Teng sjá Ping . Formaður Hua Kuo Feng hafði fyrir alllöngu bent á að samkvæmt hinni maóísku aðferð þá ber ekki eingöngu að benda á villur þeirra félaga sem gera sig seka um villur, heldur ber að ræða villurnar ítarlega, komast til botns í þeim, leiðrétta þær og ennfremur hjálpa þeim félaga sem gert hefur villur til að skilja þær og leiðrétta þegar þess er kostur. Það er einmitt þetta sem fólgið er í kenningum Maós um einingu-gagnrýni-einingu, sem er í algerri andstöðu við afstöðu fjórmenninganna, sem börðust gegn hvers kyns einingu en unnu stöðugt að sundrungu.

Sigurinn yfir últra hægriklíku fjórmenninganna og skemmdarverkastarfsemi þeirra er sigur kenninga Maós formanns , um uppbyggingu sósíalismans og áframhaldandi byltingu. Endurreisn Teng Shá Pings er sömuleiðis sönnun á réttmæti kenninga Maós um hvernig beri að meðhöndla móthverfur innan alþýðunnar. Íslenskir kommúnistar hljóta að fagna þessum sigrum sem náðst hafa í uppbyggingu sósíalismans í Kína, undir forystu hins nýja leiðtoga kínversku þjóðarinnar, félaga Hua Kuo Feng.

## Einna erfiðasti farartálminn að marki

Einna erfiðasta farartálmann að marki sínu sem drottnendur Kínaveldis álitu "fjórmenningarnir" verja hina gömlu leiðtoga byltingarinnar, sem gengið höfðu gönguna löngu, leitt Kínversku þjóðina til sigurs yfir hvers kyns heimsvaldastefnu og afturhaldi, leiðtogarnir sem ekki aðeins höfðu leitt kínversku þjóðina til sigurs á tímum erfiðleika og harðræðis, heldur höfðu barist við hlið hins óbreytta hermanns og þolað hvers kyns erfiðleika með þjóð sinni. Vegna reynslu sinnar af þeim þá ber kínverska þjóðin óbifandi traust til þessara gömlu leiðtoga sinna því að hún veit að alla sína ævi hafa þeir unnið að því að þjóna alþýðunni og gera byltingu en ekki skeytt hið minsta um eigin hag. Til þess að réttlæta árásir sínar gegn gömlu leiðtogunum og til þess að reyna að fá fjöldann í lið með sér suðu fjórmenningarnir upp kenninguþess efnis að sé lögmál að 80-90% af gömlum leiðandi félögum hlytu að spillast og verða "auðvaldsvegfarendur. Þannig reyndu þeir á sama hátt og Trotsky á sínum tíma, að skapa ósættanlega móthverfu milli eldri leiðtoga flokksins og hinna yngri flokksfélaga. Þessa kenningu sína réttlættu þeir með því að benda á að þessir gömlu kommúnistar höfðu gengið í flokkinn þegar kínverska byltingin var enn á stigi hinnar borgaralegu lýðræðisbyltingu. En þeir fölsuðu kenningar félaga Maós með því að minnast ekki á í þessu sambandi að hin kínverska lýðræðisbylting var ekki lýðræðisbylting af gömlu gerðinni, heldur nýlýðræðisleg og að hún fór fram undir leiðsögn öreigastéttarinnar og pólitísks flokks hennar kommúnistaflokksins. Kommúnistaflokkurinn gerði sér fullkomlega grein fyrir því að til þess að tryggja sigurinn eftir að heimsvaldasinnar höfðu beðið ósigur varð tafarlaust að hefja hina sósíalísku byltingu og koma á alræði öreiganna. Og hverjir voru það svo sem leiddu hina kínversku þjóð í nýlýðræðislegu byltingunni og síðan inn á braut sósíalísku byltingarinnar ? Það voru einmitt "gömlu kommúnistarnir" með Maó formann í broddi fylkingar.

"Fjórmenningarnir" fölsuðu einnig meðvitað kenningu Maós um hina nýju borgarastétt og að hana væri að finna innan flokksins. Þeir héldu því fram að samkvæmt þessu þá væri það lögmál að flokkurinn fæddi af sér borgarastétt og að grundvöll þessarar stéttar væri að finna innan flokksins. Með þessu voru þeir að snúa almennum kenningum marxismans alveg á haus, því að samkvæmt marxismanum þá eru pólitískir flokkar tæki í höndum mismunandi stétta en geta sem slíkir aldrei fætt af sér neinar stéttir Kenning Maós er sú að borgarastéttin neyti allra bragða til að hrifsa til sín flokkinn úr höndum öreigastéttarinnar og fulltrúar hennar ynnu að því innan flokksins, en ekki það að flokkurinn sjálfur væri fjandsamlegur öreigaalræðinu eins og "fjórmenningarnir" héldu í raun og veru fram til að réttlæta árásir sínar.



FRAMHALD AF FORSÍÐU.

## Lokun....

að það smánar kaup sem þeir borga okkur í dag, og beita gerræðislegum aðferðum til að knýja á um gengisfellingu til að lækka kaupmátt launanna á að svipta þá eignarhaldi á þessum atvinnutækjum. Við verkafólkið í sjávarplássunum getum öruglega skipulagt traustann rekstur frystihúsanna þar sem enginn einn eða fáir einstaklingar væru til að hirða gróðann af vinnu okkar. Þá værum við laus við gerræðislegar uppsagnir og atvinnuleysistímabil sem bitna á okkur undir stjórn þeirra manna sem ráða frystihúsunum í dag. En þessi stefna að svipta auðmennina atvinnutækjunum og að verkafólkið hirði gróðann af sinni vinnu og stjórni fyrirtækjunum á ekki upp á pallborðið hjá öllum.

Talsmaður verkalýðshreyfingarinnar Eðvarð Sigurðsson lætur hafa það eftir sér í Þjóðviljanum að kjörin verði varin, án þess að útskýra það nánar. Auk þess tekur hann undir barlóm frystihúsaeigenda sem tala um rekstrarkerfið

berja Þetta eru viðbrögð verkalýðshreyfingarinnar þegar hundruðum verkafólks er sagt upp vegna þess að eigendurnir vilja meiri gróða. Það er engin furða að atvinnurekendur og aðrir braskarar kalla slíka forystumenn sem Eðvarð Sigurðsson er, hina ábyrgu talsmenn verkalýðshreyfingarinnar, enda vilja þeir ekki svipta auðmennina atvinnutækjunum. Eðvarð vill ekki leggja til að atvinnuöryggi verkafólksins verði tryggt á þann hátt að verkafólkið og verkalýðsfélögin opni og starfræki frystihúsin. Þess vegna verður fólkið að taka til sinna ráða og krefjast tafarlausrar opnunnar frystihúsanna, og ef að eigendurnir treysta sér ekki að halda uppi fullu atvinnuöryggi verðum við að reka þau sjálf.





Öreigar og kúgaðar þjóðir heims sameinist!

# Stéttabaráttan



Útg: Kommúnistaflokkur Íslands m-l.
28.tbl. 6.árg. 28/8. 1977.

STÉTTABARÁTTAN
-kemur út vikulega-
Sími: 27810.
Gíró: 27810-6.

Ábyrgðarm: Sigurður Ingi Andrésson.



*Viðtal við Jón Danielsson*

## Kjaradeilan hótel Heklu

Stéttabaráttan: Hver voru tildrög þessarar kjaradeilu?

Jón: Því er fyrst frá að segja að í vor er starfsfólkið var ráðið var gerður samningur á grundvelli Edduhótelasamninganna. Í þeim samningi var gert ráð fyrir að milli starfsfólksins yrði skipt 38% af tekjum af gistingu og 29% af tekjum af veitingum. Skyldi þessu skipt jafnt miðað við framlagða vinnu. Þannig var tiltekt á herbergjum metin í upphafi og skyldi greitt samkvæmt því. Ekkert var minnst á sérstakan hlut hótelstjórans. Ráðnar voru fimm manneskjur, þannig að talið með hótelstjóranum Ólafi Ólafssyni voru 6 manns starfandi á hótelinu. Hótelið hóf svo starfssemi sína 20 maí. Kaupið skyldi gert upp mánaðarlega og fyrsta uppgjör var í byrjun júní. Það reyndist greinilega vera undir taxta verkalýðsfélagsins. En þar sem þetta var aðeins fyrir fyrstu 10 dagana og samkvæmt áætlun um gestafjölda hótelsins í sumar átti að verða um mikla aðsókn og þar af leiðandi háar tekjur næstu mánuði, gerðum við ekkert veður út af þessu. En þessi áætlun var greinilega óraunhæf

Stéttabaráttan: Viltu skýra nánar hvað þú átt við.

Jón: Já. Við komust að því seinna að þessi áætlun var gerð á grundvelli fyrirspurna frá ferðaskrifstofunni, sem gefur mun hærri tölur en það sem búast má raunverulega við.

Stéttabaráttan: Það virðist ljóst á framansögðu að kaup hina fyrstu daga hafi verið undir taxta og að þið hafið ekki haft neina kauptryggingu.

Jón: Nei, ekki var rætt um það og gerðum við ekki neitt veður út af því við fyrstu kaupgreiðslu, af framangreindum ástæðum. En málið átti eftir að taka aðra stefnu. Í byrjum júlí þegar kaup var gert upp fyrir júní mánuð kom hótelstjórinn Ólafur Ólafsson með nýjan grundvöll til að reikna kaupið eftir. Áætlaði hann sér 1/3 af því sem kom til skiptanna milli starfsfólksins og reiknaði vinnu á herbergjunum í tímavinnu. Það má gjarna koma fram að það var ekkert smáræðis kaup sem hann skaffaði sér eða rétt tæpar 600.000 kr. Aðspurður hvort honum finndist þetta ekki há laun, sagði hann: "Þetta er ekki hæsta kaup sem ég hef haft".

Starfsfólkið vildi að sjálfsögðu ekki fallast á þetta og vildi ekki taka við kaupinu þannig. Eftir nokkrar deilur féllst hótelstjórinn á að gera málamiðlun sem skyldi gilda fyrir júní mánuð. Var í þeim samning gerð sú breyting frá fyrri samningnum að hótelstjórinn fékk 1/8 af óskiptum hlut. Var fallist á þetta þó að hótelstjórinn gæti ekki gert grein fyrir í hverju hótelstjórastarfið væri fólgið. Virðist hann ekki gera neitt umfram það sem stúlkan sem vann á móti honum í móttökunni gerði. Helst reyndi hann að bera við að starf hans sem hótelstjóra fælist í "ábyrgð og andvökunóttum". Stuttu eftir að þessir samningar voru gerðir var skipt um hótelstjóra og við tók kona Ólafs, Áslaug Alfreðsdóttir. Var hún öllu verri viðfangs og neitaði hún algjörlega að ræða við starfsfólkið um kjör þess. Þar sem ástandið var nú orðið með öllu óbærilegt þá sendu fjórir af starfsfólkinu Húsbyggingarsjóð Framsóknarfélaganna í Reykjavík bréf, þar sem farið var fram á að hann sem hóteleigandi hefði viðræður við starfsfólkið um kaupkröfur þess. Stjórn Húsbyggingarsjóðs neitaði að ræða þessi mál við starfsfólkið, en vísaði á hótelstjórann.

Stéttabaráttan: Nú skrifa aðeins fjórir undir þetta bréf. Var ekki samkomulag um þetta meðal alls starfsfólksins?

Jón: Nei! Ein af stúlkunum var algerlega á bandi hótelstjórans.

Stéttabaráttan: Hvaða viðbrögð urðu af hendi hótelstýrunnar við þessu bréfi?

Jón: Hún skrifaði bréf til okkar þar sem okkur var sagt upp vinnunni með viku fyrirvara.

Stéttabaráttan: Var einhver ástæða tilgreind?

Jón: Hún sagði við okkur að hún liti þannig á að með því að leita til stjórnar Húsbyggingarsjóðsins hefðum við brotið gerða samninga við hana. Það næsta sem gerðist í málunum var að þegar hótelstýran sýndi okkur kaupútreikningana í byrjun ágúst, reiknaði hún okkur tímakaup á lægsta taxta sem hún gat fundið og tiltektina á herbergjunum á tímakaupi, þó svo að þau væru tekin í akkorði eins og ég hef tilgreint hér áðan.

Stéttabaráttan: Þarna er um ennþá hastarlegri aðgerðir að

Jón: Já, hún sagði okkur að þar sem við hefðum gengið í verkalýðsfélag hefðum við brotið samkomulagið við hana. Það sem hún hefur raunverulega haft á móti veru okkar í stéttarfélagi var líklega að þá yrði hún að greiða launatengd gjöld, en við höfðum ástæðu til að ætla að hún gerði ekki á þeim rétt skil. Til dæmis var ekki getið um orlof, lífeyrisgjald né félagsgjald í launauppgjörunum.

Stéttabaráttan: Nú var ykkur sagt upp með viku fyrirvara. Hverning fór með þann hluta málsins?

Jón: Það var að sjálfsögðu ólöglega stuttur fyrirvari og. því breytt í tvær vikur. Reyndar var okkur boðið að vinna þar áfram sem við ekki þáðum. Það var ekki ætlun okkar að vinna lengur en til loka ágúst.

Stéttabaráttan: Hvað viltu segja um hlut verkalýðsfélagsins?

Jón: Hann var alltof lítill, sem skapast af því að það á ekki möguleika á því að grípa til aðgerða í svona málum samkvæmt vinnulöggjöfinni. Heldur verður að leita til félagsdóms sem getur tekið óralangan tíma.

Stéttabaráttan: Einhverja lærdóma sem þér finnst að megi draga af þessu máli?

Jón: Það í fyrsta lagi að Edduhótelasamningarnir eru líklegir til að draga starfsfólkið undir taxta, sérstaklega ef hótelið er rekið á ársgrundvelli. Því er nauðsynlegt að kauptrygging sé gerð jafnhliða. Í öðru lagi gallarnir á vinnulöggjöfinni. Til dæmis er ekki mögulegt fyrir verkalýðsfélagið að grípa til skjótra aðgerða. Ennfremur það að atvinnurekendur geta sagt fólki upp án þess að gefa neina frambærilega ástæðu.

Þá teljum við einnig að hér hafi verið um að ræða upphaf á innreið Eddu-hótela samninganna í hótelin í Reykjavík. Því er það mjög mikilvægt að hafa hnekkt þessari tilraun.

## Áskriftaherferð

Félagar og aðrir velunnarar Stéttabaráttunnar. Nú hefur Stéttabaráttan komið út vikulega í meira en hálft ár. Á þessu tímabili hefur ekki verið nein skipuleg herferð til að auka útbreiðslu blaðsins. Þesvegna hefur ritnefnd í samráði við aðrar einingar Kommúnistaflokksins, ákveðið að hefja útbreiðslu og áskriftaherferð sem standa mun til loka september.

Takmark okkar er : 200 nýir áskrifendur, og aukning lausasölu um 100 blöð á viku.

Það er óþarfi að hvetja menn til að láta ekki sitt eftir liggja, allir hljóta að sjá hve mikilvægt það er Íslenskri verkalýðsstétt og kommúnismanum að eiga góðan málsvara.

Hamarinn mun sýna aukningu lausasölunnar, frá því sem nú er. Sigðin sýnir nýja áskrifendur blaðsins.

Félagar og aðrir velunnarar blaðsins skulu póstsenda nýjar áskriftir til :

Rauðu Stjörnunnar, Lindagötu 15. Rvk. Pósthólf 1357.
Einnig má hringja í síma 27810 milli klukkan 15 og 18.






Teng Sja Ping, varaformaður kommunistaflokksins og varaforsætisraðherra (lengst til vinstri) asamt Hua Kuo Feng formanni og Yeh Chien Ying varnarmalaráðherra.

## Endurreisn Teng Sjá Ping

Að undanförnu hafa borgarablöðin birt hverja greinina á fætur annarri um "sigur hægri aflanna" í kínverskum stjórnmálum. Endurreisn félaga Teng sjá Ping; á að vera sönnun á því. Sömu heimildir kalla einnig "fjórmenningana" gjarnan "fulltrúa hins róttæka arms Kínverska Kommúnistaflokksins". Þannig er því varið með þessi skrif borgara blaðanna eins og um flest annað sem þau hafa látið frá sér fara um alræði öreiganna í Kína, að endaskipti eru höfð á raunveruleikanum. Hið sanna ímálinu er að hinn byltingarsinnaði öreigalýður kínaveldis undir forystu félaga Hua Kuo Feng og hin byltingarsinnaða lína formanns Maó Tse-Tungs hefur unnið stórsigur í baráttunni gegn borgaralegum öflum og últra hægrisinnum innan flokksins sem fylktu liði undir forystu hinna svokölluðu fjórmenninga.

Í raun og veru svipar "fjórmenningunum" og pólitískum starfsaðferðum þeirra mjög mikið til hinna trotskyisku skemmdarverkamanna í Sovétríkjunum á þriðja áratugnum. Þeir flögguðu últraróttækum vígorðum, héldu pólitíska æsingafundi þar sem þeir komu fram sem "hinir einu og sönnu byltingarsinnar", Á sama hátt og Trotsky þóttist vera hinn eini og sanni lenínisti þrátt fyrir stöðuga baráttu gegn honum í reynd, þá þóttust "fjórmenningarnir" vera hinir einu sönnu boðendur stefnu Maós formanns þó svo að í reynd berðust þeir stöðugt gegn henni og ynnu stöðugt skemmdarverkastarf á framkvæmd hennar. Í lífi og starfi þeirra hafði tvöfeldni hins borgaralega stjórnmálamanns undirtökin. Á sama tíma og "fjórmenningarnir" boðuðu í æsingaræðum sínum að 'sósíalísk taða væri betri en kapítalískt korn" létu þau byggja sér glæsilegar villur með einkasundlaug, héldu viðhafnarmiklar veislur fyrir sig og stuðningsmenn sína. Í listum og bókmenntum settu þau fram staðnaða og gelda formúlu fyrir því hvernig semja skyldi bók, hvernig kvikmynd skyldi vera osfrv. og hreyktu sér af því að hafa skapað "fyrstu heilsteyptu öreigamenningu sögunnar" og "fyrstu fullkomlega marxísku afstöðuna til lista og bókmennta".

Fjórmenningarnir misnotuðu algerlega og fyrirgerðu því trausti sem alþýðan hafði sett á þá er hún treysti þeim til ýmissa trúnaðarstarfa í ríki og flokki til að framfylgja línu Maó formannsog hagsmunum fjöldans. Í raun og veru höfðu fjórmenningarnir aðeins eitt pólitískt markmið, þ. e. að byggja upp og treysta eigin persónuleg völd. Af taumlausri einstaklingshyggju víluðu þeir ekki fyrir sér að nota öll hugsanleg ráð til að hreiðra um sig og sína fylgismenn innan flokks og ríkis. Raunverulegt markmið þeirra var að brjóta niður alræði öreiganna innan frá og koma upp þess í stað fasisku einræði sínu sem síðan skyldi nota til að raungera heimsvaldasinnaða drauma þeirra sem náðu langt út fyrir landamæri Kína.

### Ekki óskeikulir

Að sjálfsögðu er það samt þannig að hinir gömlu leiðtogar og kommúnistar eru ekki óskeikulir né hafnir yfir öll mistök. Heimurinn í kring um okkur er í stöðugri breytingu og hið sama á við um þekkingu okkar á honum. Að breyta þjóðfélaginu og byggja sósíalisma er ferli stöðugra breytinga, stöðugrar byltingar og stöðugrar baráttu. Nýjar og breyttar aðstæður kalla á ný viðhorf og nýjar athafnir og slíkt gerist aldrei án baráttu milli mismunandi skoðana uns nýju jafnvægi hefur verið náð. Alls staðar kemur fram barátta milli þess sem er rangt og rétt, gamalt og nýtt. En það verður að gera skýran greinarmun á mótsetningum við óvininn og mótsetningum innan alþýðunnar. Baráttan í Kína gegn "fjórmenningunum" er dæmi um mótsetningu við óvininn því "fjórmenningarnir" unnu skipulega að því að brjóta niður og eyðileggja byltingarsinnað alræði alþýðunnar.

### Teng sjá Ping

Baráttan gegn 'Teng sjá Ping er hins vegar dæmi um mótsetningu innan alþýðunnar. Félagi Teng var enginn nýgræðingur í kommúnísku hreyfingunni. Hann var einn af þeim leiðandi kommúnistum sem þátt tóku í göngunni löngu. Hann stóð mjög framarlega í andjapanska stríðinu og í baráttunni gegn hlaupatíkum bandarísku heimsvaldastefnunnar. Síðar varð hann einn af þeim kommúnísku leiðtogum heimshreyfingarinnar sem tók upp